Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Málgagn Kommúnistaflokks Íslands/Marxista-Lenínista

34. tölublað | Þriðjudagurinn 4. október | 6. árgangur. | Verð kr. 60.



# BSRB: Mikil fundasókn

Áhugi opinberra starfsmanna fyrir hagsmunamálum sínum er nú mjög mikill og fer sívaxandi. Það hefur komið hvað gleggst í ljós í fundarhöldum þeim sem staðið hafa yfir að undanförnu, þar sem tillaga sáttanefndar hefur verið kynnt og rædd. Á þessum fundum hafa verið slegin öll met hvað aðsókn snertir og hafa þúsundir starfsmanna ríkis og bæja mætt þar og sýnt þannig að mun meiri áhugi og baráttuvilji er nú fyrir hendi meðal þeirra en nokkru sinni fyrr.

Félagar BSRB eru að gera sér grein fyrir því, að engir sigrar geta unnist, hvorki í hagsmunabaráttunni né í annarri baráttu, nema með þátttöku fjöldans. Ef fjöldinn er ekki meðvitaður og einhuga um þær kröfur sem settar eru fram er lítil von til þess að þær nái fram að ganga.

Verkfallsréttarlögin.

Í lagasetningunni um verkfallsrétt opinberra starfsmanna var ákvæðið um 50% þátttöku í atkvæðagreiðslu um samninga, einungis hugsað af hálfu ríkisins sem leið til að reyna að hindra að af verkfalli gæti orðið. Handhafar borgaralega ríkisvaldsins vita full vel að með verkfallsvopnið í höndum og sameinaðir geta opinberir starfsmenn náð miklum kjarabótum. Því vilja þeir á allan hátt reyna að draga úr áhrifamætti þessa vopns.

Ríkisvaldið leitast sífellt við að lækka laun fjölmennustu hópanna þeirra sem eru neðst og um miðbik launastigans, jafnframt því sem ætíð er vel hugsað fyrir þeim sem efstir eru í launastiganum. Enda er það ekki nema von þar sem það eru aðallega háttsettir embættismenn, sem ýmist eru hluti borgarastéttarinnar eða dyggustu stuðningsmenn hennar. Það er engin tilviljun að ríkið hefur ætíð gengið orðalaust að kröfum þessa fámenna hóps, en hundsað kröfur fjöldans, því ríkisvaldið er stéttavald, vald borgarastéttarinnar og gætir eingöngu hagsmuna hennar.

Hvað er framundan?

Ef sáttatillagan verður felld, eins og flest virðist nú benda til, kemur boðað verkfall opinberra starfsmanna til framkvæmda 11 okt n.k. Það má segja að þá hefjist baráttan fyrir alvöru, því löggjafinn hefur sett ýmsar reglur sem miða að því að lama og draga úr mætti verkfallsins. Eitt grófasta lagaákvæðið í þessa átt er undanþágunefndin sem í sitja 6 frá ríkisvaldinu en einungis 3 frá BSRB. Þessi nefnd á að úrskurða í samræmi við lögin hverjir skuli vinna þrátt fyrir verkfallið. Er ekki að efast um hvers taum hún muni draga. Gegn gerræðisdómum slíkrar nefndar eiga opinberir starfsmenn aðeins eitt svar, þ.e. að hundsa þá ef þeir eru augljóslega aðeins settir til að draga úr krafti verkfallsins.

FRAMHALD Á BAKSÍÐU



Samstaða opinberra starfsmanna hefur aldrei verið meiri og hún má hvergi bresta.

# Er verkalýðsforystan meðsek í ósómanum

Verkalýðshreyfingin á tvo fulltrúa í öryggisráði ríkisins sem hafa skal eftirlit með því að öryggiseftirlitið framfylgi settum lögum um aðbúnað og öryggisreglur á vinnustöðum. Þrátt fyrir að flestar greinar laga um húsnæði vinnustaða og öryggisráðstafana á vinnustöðum séu brotnar af atvinnurekendum, heyrist ekki bofs frá þessum launuðum fulltrúum okkar um meint brot atvinnurekenda. Stéttasamvinnan er hér allsráðandi því þögnin hefur einkennt starf Guðmundar J. Guðmundssonar að þessum málum. Samt er honum fullkunnugt um fjölda brota sem honum væri í lófa lagt að ákæra öryggiseftirlitið fyrir að sinna ekki eins og þeim ber skylda til að gera. Við getum tekið nokkur dæmi um það hvernig lögin um húsnæði vinnustaða eru brotin með þegjandi samkomulagi viðkomandi aðila.

Um lofthæð segir í 4. grein laganna:

"Í vinnurými skal ávallt vera svo hátt undir loft, að sú starfsemi, sem þar er framkvæmd geti farið fram án hindrunar eða hættu af þessum sökum. Lofthæð má aldrei vera minni en 2,5 metrar eftir að rýmið er fullfrágengið, þótt þar séu ekki neinar vélar eða fyrirferðamikil áhöld. Þar sem búast má við sprengi-, eldfimum eða eitruðum lofttegundum, miklum hita, raka, ryki eða reyk má krefjast meiri lofthæðar."

Þessi grein laganna var brotin svo árum skipti í húsnæði því sem vélsmiðjan Normi hafði í iðnaðarhverfinu inni í Vogum. Þar störfuðu margir verkamenn og var þetta ekki hið eina sem var brotið á þeim. 8. grein um lýsingu á vinnustað, 10. grein um loftræstingu, 12. grein um kjallararými og 14. grein um búningsherbergi og fatahengi voru sömuleiðis margbrotnar eins og víða annars staðar. Það að annar eigandinn borgar stórar fúlgur í kosningasjóð Alþýðubandalagsins og hinn styður Sjálfstæðisflokkinn hefur kannski orðið til þess að engar ráðstafanir voru gerðar til úrbóta af þeim aðilum sem um þessi mál eiga að sjá.

Í Sindrastál við Sundahöfn vinna þegar flest er hátt í 20 verkamenn, en þrátt fyrir að GJG hafi komið þangað í eigin persónu auk Öryggiseftirlitsins eru ákvæði 14. greinar um búningsherbergi og fatahengi ekki virt og sama er að segja um 21. grein um salerni, snyrtiherbergi og þvagstæði auk annarra ákvæða um öryggisráðstafanir á vinnustöðum.

Við Reykjavíkurhöfn vinna margir verkamenn í gömlu pakkhúsunum, svonefndum A-skálum, en þar eru ákvæði

# Kambódía
# Sjálfstætt fólk

Líklega hefur fátt vakið eins óskipta gremju í herbúðum afturhaldsins og sigur fátækrar bændaþjóðar Kambódíu yfir bandarísku árásarherjunum í apríl 1975. Æ síðan hefur borgarapressan á vesturlöndum ekki linnt látum gegn Kambódíu og það er varla til það dusilmenni í röðum fréttaritara á vesturlöndum, að hann hafi ekki ausið kambódíska alþýðu aur í skrifum sínum eða frásögn. En hver er orsökin fyrir því, að fréttaskýrendum er svo mjög í nöp við Kambódíu? Hvers á fátæk bændaþjóð, sem óskar einskis nema friðar til þess að geta byggt land sitt upp á farsælan hátt, að gjalda?

Hatur borgarastéttarinnar er í þessu tilfelli hrós. Kambódía er fordæmi sem áróðursmeistarar borgarastéttarinnar geta ekki látið afskiptalaust. Sú staðreynd, að fátæk og ómenntuð bændaþjóð taki eigin mál í sínar hendur, hafni tæknilegri og fjárhagslegri aðstoð frá hinum "menntaða" heimi og hefji sósíalíska uppbyggingu, nægir ein sér til þess að trylla torgsala kapítalismans. Það er liður í áróðri borgarastéttarinnar, að hún sjálf sé ómissandi og að án hennar muni skipulag og uppistöður heimsins hrynja til grunna. Þessi áleitni áróður birtist ekki aðeins í niðurlægjandi ummælum um hæfni og getu litaðra þjóða 3ja heimsins, heldur líka í lítt sannfærandi yfirlýsingum, að verkafólk geti aldrei stjórnað einni verksmiðju, hvað þá heilu þjóðfélagi. Sagan afsannar þessi örvæntingarfullu rök deyjandi stéttar. Hægt en markvisst opnar hún augu hvers og eins fyrir þeim lygum, sem borgarapressan hefur spúið yfir heimsbyggðina. Og Kambódía er eitt slíkra dæma, sem afhjúpa lygar borgarastéttarinnar og sýna fram á, að hún er ekki einasta óþörf mannkyninu, heldur beinlínis ógnun við framtíð þess. Þetta er meginforsendan fyrir því, að lítilþæg og samviskulaus afturhaldsþý borgarapressunnar hella sér yfir Kambódíu af slíku offorsi, að helst minnir á nornaofsóknir 17. aldar.

En hvers vegna er ekki búið að drepa helming Víetnama líka á síðum afturhaldsblaðanna? Og hvers vegna heyrist ekki hósti eða stuna um Laós? Líklega eru orsakirnar þær, að áróðurspáfar bandarísku heimsvaldastefnunnar völdu af samviskusemi og kænsku að beina hatri sínu aðallega að Kambódíu, en þegja jafnframt eins og málleysingjar yfir þróun Víetnam og Laós. Thailensk leiguþý Bandaríkjamanna hafa verið helsta "heimild" þeirra frétta, sem fluttar eru af Kambódíu. Og þar er hvergi sparað til. Ekki nóg með að búið sé að aflífa helming landsbúa - og það þarf ekki að taka því fram að allir menntaðir og hugsandi menn voru náttúrlega leiddir undir hnífinn fyrst, því



Kambódía er land stórstígra framfara, þrátt fyrir lygar borgarapressunnar.

fátt vekur andstyggð yfirvalda Kambódíu eins harkalega og menntun, hugsun og tækni - heldur er það meðvituð stefna nefndra yfirvalda, að stýra landinu aftur í ystu myrkur lénstímans og að því er best verður séð, ganga fyrir ættjarðarstapa ásamt allri þjóðinni. Og ekki nóg með að Kambódíumenn ætli að tortíma sér sjálfum, alþýðu manna er gert ljóst, að þeir ætli fyrst að leggja undir sig lönd og þá væntanlega að fara sama eyðandi loga yfir akra þeirra.

Við lestur greinar eftir Elínu Pálmadóttur, blaðamanns Morgunblaðsins, má finna lágkúrulegustu gerð þessa áróðurs Hún hefur sjálf gert sér för

FRAMHALD Á BAKSÍÐU

Sjá baksíðu.

**Mætum öll á Þing herstöðvaandstæðinga 15. og 16. okt.**

LEIÐARI

# Kínverska byltingin 28 ára

Nú eru liðin 28 ár frá því að frelsisbarátta stærstu þjóðar veraldar lauk og þar var komið á sósílisku þjóðskipulagi. Barátta kínverskar alþýðu hefur síðan verið frelsisbaráttu þriðja heimsins leiðarljós í baráttunni fyrirfrelsi og sjálfstæði. Frelsisbaráttan í Kína, fyrir 28 áum, hafði þannig ekki aðeins áhrif á þjóðfélagsskipulag Kína, heldur hafði hún í för með sér alþjóðlega vakningu fyrir hinar kúguðu þjóðir alls heimsins. Kínverska byltingin sannaði öllum heiminum að heimsvaldastefnan er deyjandi auð⁻ald, sem þriðji heimurinn getur hrundið af hündum sér undir merkjum sósíalismans. Á sama hátt og Októberbyltingin markaði rótæk umskipti fyrir byltingarbaráttu verkalýðs auðvaldsríkjanna. Þá var kínverska byltingin opinberun fyrir þriðja heiminn bæði hvað varaði skipulag og baráttuaðferðir. Októberbyltingin í Rússlandi skapaði möguleika á því að byltingar í þriðja heiminum gætu orðið sigursælar. Hún hafði rofið skarð í víglínu heimsauðvaldsins, sem varð til þess að auðvaldslöndin urðu í æ ríkara mæli að treysta á arðrán sitt á nýlendum og hálfnýlendum sínum. En stuðningur Sovétríkjanna við frelsishreyfingar þriðja heimsins hafði afgerandi mikilvægi fyrir þróun frelsisbaráttunnar. Frelsisbarátta varð ekki lengur borgararleg lýðræðisbylting, sem skóp af sér kapítalíst þjóðskipulag. Frelsisbaráttan varð bylting af nýrri gerð. Hún varð hluti af heimsbyltingu verkalýðsstéttarinnar og varð tákn þess að umskiptin til sósíalismans voru hafinn um allan heim. Ekki aðeins í auðvaldslöndunum heldur líka í nýlendum og hálfnýlendum auðvaldsheimsins. Þetta er hið alþjóðlega mikilvægi kínversku byltingarinnar fyrir 28 árum síðan. Mao sagði eitt sinn þegar hann var að útskýra söguleg einkenni kínversku byltingarinnar "sögguleg einkenni kínversku byltingarinnar eru hinir tveir áfangar hennar, lýðræði og sósíalismi, og fyrsti áfanginn er nú ekki lengur lýðræði í hinum almenna skilningi, heldur lýðræði af nýjum og sérstæðum toga kínverskt lýðræði, ný-lýðræði". Þetta nýja-lýðræði sem Mao talar hér um er ríkisvald af nýrri gerð sem bæði var frábrugðið afræði borgarastéttarinnar og líka alræði verkalýðsstéttarinnar. þetta var "lýðveldi, sem lýtur sameiginlegu alræði ýmissa byltingarstétta". ( Mao ) Kína var og er fyrst og fremst ríki þriðja heimsins og því er kínverska byltingin að ýmsu leiti frábrugðin byltinarbaráttunni í Evrópu og Ameríku. Þetta yfirsést mörgum þegar þei⁻ taka afstöðu til Kína í dag. Mönnum hættir oft til að meta allt út frá einum mælikvarða þ.e.a.s. út frá því umhverfi sem þeir búa og hrærast sjálfir í en gleyma því gjarnan að til eru aðrar þjóðir og aðrar heimsálfur sem lifa við allt önnur skilyrði en þeir sjálfir.

Eftir að borgarastéttin náði aftur völdunum í Sovétríkjunum 1956 hafa orðið miklar breytingar á því hlutverki sem Kína gegnir fyrir heimsbyltingu verkalýðsins. Afturhvarf svo mikilvægra vígstöðva sósíalismans ,táknuðu margra áratuga afturför sósíaliskrar byltingarbaráttu í heiminum. Kommúnistaflokkar V-Evrópu urðu nú vígi endurskoðunarstefnu og borgaralegra hugmynda í röðum verkalýðsins. Þetta hefur skapað af sér mikin glundroða og stefnuleysi í byltingarhreyfingum auðvaldslandanna. Það hefur því komið í hlut Kína að leysa úr þessum málum og taka forystu fyrir endursköpun hinnar byltingarsinnuðu hreyfingar. Í dag er þetta mjög skammt á veg komið og enn er þessi nýja hreyfing illa haldin af ýmsum barnasjúkdómum. Hún er klofin í fjöldamörgsamtök í hverju landi, sem flest eru í klóm einangrunarstefnunnar og hópsjónarmiða. Kínverjar hafa séð hættuna sem af þessu getur stafað og hafa hvað eftir annað bent á mikilvægi þess að "sameinast en sundrast ekki". Þeir hafa líka bent á mikilvægi þessa í ljósi þeirra ógnana sem heiminum stafar af nýrri heimstyrjöld . Kínverjar hafa þannig í dag ekki bara tekið að sér það hlutverk sem Rússland gegndi áður að vera helsta vígi sósíalismans, heldur er Kína og barátta þess, helsta von mannkinsins, gegn nýrri heimstyrjöld. Barátta kínverja gegn stríðsógnunum beggja rísaveldanna, USA og USSR, hefur vakið upp breiða samstöðu, sem haldið hefur aftur af stríðsógnum risaveldanna. Með þetta í huga og hlutverk kínverja í heimsbyltingu verkalýðsins, óskum við kínversku þjóðinni til hamingju með 28. ára byltingaafmælið.

RAUÐUR VETTVANGUR
frá lesendum

# Örn Ólafsson: seinni hluti

# Um baráttuhreyfingu gegn heimsvaldastefnu

## Skilyrðislaus stuðningur

Vitaskuld eigum við svo stundum að lýsa yfir skilyrðislausum stuðningi við eina ákveðna frelsishreyfingu. Það er þegar augljóst er að hún, og hún ein, virkjar alþýðuna til frasækinnar baráttu. Dæmi eru m.a. þjóðfrelsisfylkingin í Vietnam, Frelimo í Mósambík (þar var lítill samkeppnisaðilji, síðnýlendusinnaður), MPLA í Angóla (rökstutt m.a. í riti mínu: Kommúnismi eða kreddutrú, 2.k.). Hvað snertir hreyfingar í Suður- Afríku og Zimbabwe, t.d. þykir mér augljóst að Bgh verði að bíða með að taka bindandi afstöðu til þeirra, þótt einstaklingar innan hennar og utan megi lýsa afstöðu til þeirra, m.a. í Samstöðu. Það þjónar almennum skilningi að þeir geri grein fyrir því hvers vegna þeir styðji tiltekna hreyfingu, hitt væri hræsni að fjalla um málin frá tilteknum sjónarhóli en þegja þó yfir því.

## Hvernig starf

Stefnuskráin segir okkur fyrir um verkefni, en við hljótum að raða þeim eftir m.a. gerð hreyfingarinnar hverju sinni.

Nú, þegar við erum fá, skipta gæði útgáfuefnis mun meira máli en tíðni eða fjölbreytni starfsins. Við verðum því að láta okkur nægja að þýða góðar yfirlitsgreinar um svið okkar, eða vinna úr þeim í Samstöðu.

Næstu verkefni eru: 1. að útbreiða Samstöðu, 2. gera leshringi um ákveðin svið; yfirlit um Afríku, S-Ameríku og SA-Asíu, eftir hendinni, 3. fá inn nýliða.

Nýliðar myndu byrja á leshring, en fá síðan verkefni við hæfi, s.s. samningu og dreifingu dreifirita, áróður á fundum, t.d. skólafundum, rannsóknir í starfshópum o.fl.

Einstaklingsvinna er þeim auðveldust sem henni eru vanir en hún er ekki frjó, elur ekki upp nýliða. Það gera hins vegar starfshópar, blandaðir nýliðum og félagsvönum. Þar þurfa menn að vinna saman að tilteknu verkefni, nýliðar gætu t.d. fengið það afmörkuð einstaklingsverkefni, að þeir leysi þau með prýði, síðan samræmi hóplimir verkefni sín í yfirgripsmeiri heild. Hópar eru myndaðir um hver sitt verkefni eftir því sem brýnast þykir. Eðlilegt er að menn gangi á milli hópa eftir áhuga og mikilvægi viðfangsefna hverju sinni. Starfið verður þá fróðlegra, meira þroskandi og þar af leiðandi skemmtilegra.

Ekki síst þess vegna þarf að hafa eina samstöðuhreyfingu með svona vítt svið, fremur en margar, innbyrðis óháðar, hverja með sitt viðfangsefni (Eina um S-Afríku, aðra um Palestínu, þriðju um Chile, o.s.frv.). Ef sviðið er bara eitt land, er miklu erfiðara að halda upp samfelldu starfi, tryggja félögum nægilega fjölbreytt verkefni. Ennfremur er það, að heimsvaldastefnan er ein heild, en aðlagast mismunandi aðstæðum. Því fá menn miklu betri mynd af henni, er starfssviðið er víðara en eitt land eða heimshluti. Auðvitað verða starfshóparnir að hafa sjálfstæði innan ramma stefnuskrárinnar, vandamálin eru það mismunandi. Einn hópur getur ekki borið ábyrgð á niðurstöðum annars. Marktækan ágreining innan hópanna held ég að ætti yfirleitt að láta koma fram í efni sem hann birtir, eins og áður segir, held ég að það þjóni bættum skilningi Samstöðuhreyfing er allt annað fyrirbæri en lenínískur flokkur, sem verður að gæta einingar út á við í starfi. Innan ramma stefnuskrárinnar getum við væntanlega leyft okkur að sýna ágreining.

Þótt þessi hreyfing eigi langt í land með að verða fjöldahreyfing á hún þó tvímælalaust möguleika á að virkja margt fólk sem hefur áhuga á þessum málum, svo fremi að það skilji amk. norðurlandamál eitthvert, íslenskar aðstæður setja þann þröskuld. En þarna geta verið fjölbreytt verkefni fyrir fólk á ýmsum stigum þekkingar og félagsþroska, ekki síst byrjendur.

Svona samstöðuhreyfing getur ekki oriði erlendum frelsishreyfingum að miklu liði, þótt við skulum ekki vanmeta áróðurslega þýðingu hennar fyrir þær, þær fylgjast vel með því sem sagt er um baráttu þeirra erlendis. En meginhlutverk hennar er að vera upplýsandi fyrir íslendinga um baráttu kúgaðra og arðrændra hvarvetna, vekja landa okkar þannig til samstöðu. Hreyfingin er þó ekki samkeppnisaðilji við Þjóðviljann, ekki nein akademía um heimsmálin. Meginatriðið er að þessi þekking og samstaða náist með almennri virkni, þá verður þetta ein nauðsynleg leið af mörgum til almenns stjórnmálaþroska alþýðu manna.

25-28.7.1977

## HAFIÐ SAMBAND VIÐ KOMMÚNISTAFLOKK ÍSLANDS M-L

● Miðstjórn og ritstjórn Stéttabaráttunnar. sími: 27810 og pósthólf 1357, 121 R. einnig í Rauðu Stjörnunni bókabúð. Lindargötu 15. Opið mánud.-föstud 15-18,30

● Akureyri: Jón Atli Játvarðsson. Hafnarstræti 23.

● Hafnarfjörður: Fjóla Rögnvaldsd. Reykjarvíkurvegi 24.

● Hornafjörður: Skúli Waldorf. Silfurbraut 2.

● Ísafjörður: Kristinn Karlsson. Fjarðarstræti 7.

● Neskaupstaður: Messíana Tómasdóttir. Þiljuvöllum 38.

● Snæfellsnes: Sigfús Almarsson. Hellisbraut 10 Hellissandi, og Gísli Hjaltason, pósthólf 63, Stykkishólmi,

● Suðurnes: Einar Jónsson Sólvallargötu 40c, Keflavík.

● Danmörk: Magnús Þorgrímsson. Börglum Kollegiet v. 444 Börglumvej 2, 8240 Risskov

● Svíþjóð: Kristján L. Guðlaugsson, Kämnärsvägen 3A:218. 222 46 Lund.



... í stuttu máli

### IÐNÞRÓUN Í PNOM PENH

Verkamenn í Pnom Penh hafa frá frelsun landsins byggt mörg iðnfyrirtæki, svo sem skipasmíðastöð, sýruverksmiðju og bifreiðaverkstæði, og endurbyggt og stækkað fjölmargar verksmiðjur. T.d. voru flestöll tæki í gúmmíverksmiðjunni í Pnom Penh eyðilögð í stríðinu, en í september 1975 var hún tekin í notkun á ný. (Stríðinu lauk í apríl 1975). Flestir verkamannanna í þessari verksmiðju komu frá verkamanna- og smábændafjölskyldum og höfðu verið í byltingarhernum. Þeir hafa þurft að leggja hart að sér við að læra vinnuaðferðirnar. Einnig hafa þeir þurft að smíða margar vélanna að nýju.

Á þessu má sjá, að það er ekki búið að flytja alla íbúa Pnom Penh á brott og heldur ekki búið að drepa þá alla eins og hin vestræna pressa er óspör á að ljúga.

(Heimild: Peking Review nr. 39, 1977)

### ALVARLEG EFNAHAGSKREPPA Í RÓDESÍU

Alvarlegir efnahagsörðugleikar hrjá nú Ródesíu. Ein aðalástæðan er hervæðing stjórnarinnar gegn þjóðlegu frelsishreyfingunni.

Heildarþjóðarframleiðslan hefur minnkað þrjú síðustu árin. Frá 1974 til 1975 um 1,1% frá 1975 til 1976 um 3,4% og búist er við að hún minnki enn á þessu ári.

Stöðug hnignun hefur verið í iðnaði þessi ár. Byggingariðnaður minnkaði um 20% s.l. ár og um 31% á fjórum fyrstu mánuðum þessa árs miðað við sama tímabil í fyrra. Framleiðsla og útflutningur á krómi hefur minnkað. Framleiðsla nauðsynjavara hefur minnkað s.l. 2 ár. Fyrstu 5 mánuði þessa árs minnkaði landbúnaðarframleiðsla um 2,8%. Tóbaksframleiðsla, mikilvægasta framleiðslugrein landsins, hefur síðan 1965 minnkað úr 138.000 tonnum í 85.000 tonn.

Þrátt fyrir þetta hafa útgjöld til hermála verið aukin um 40% s.l. 2 ár. Mikil verðbólga er í landinu sakir þess sem hér á undan er lýst. Smith-stjórnin hyggur á skattahækkanir og miklar lántökur til að standa straum af hervæðingunni.

(Heimild: Peking Review nr. 39, 1977)

### Af fjölmiðlum

FRAMHALD AF SÍÐU 3.
„Þrír þjóðarleiðtogar".

bandaríkjamenn við að opna nýja víglínu í þeirri von að Sovétríkjunum blæddi út og reyndist þeim auðveld bráð. Það er ekki nema von að bretar hati minningu Stalíns, þess manns sem gerði þessa og marga aðra heimsvaldadrauma þeirra að engu. Minning Stalíns, hins mikilhæfa leiðtoga fyrsta sósíalíska ríkisins mun lifa að eilífu í hjörtum alþýðu Sovétríkjanna og alls heimsins. Og þrátt fyrir lygaáróður heimsvaldasinna um Stalín mun sannleikur og glæsileiki verka hans ætíð skína í gegn.



## ÚR BARÁTTUNNI

Vegna 8. þings Ve r kamann sambandsins

Undanfarin ár hafa komið fram tveir framboðslistar í Verkamannafélaginu Dagsbrún, þegar kosið er um fulltrúa þess á verkamannasambandsþing. Um er að ræða 18 fulltrúa og hafa þeir hingað til verið af lista stjórnarinnar. Réttast væri að allar skoðanir fengju að njóta sín og hlutfallskosning væri viðhöfð. Ef það væri ekki hægt, mætti sameina þessa tvo lista í samræmi við þann atkvæðafjölda sem þeir hafa fengið undanfarin ár, til að allar skoðanir kæmu fram á verkamannasambandsþinginu. Andstæðingar stéttasamvinnustefnunnar innan verkalýðshreyfingarinnar hafa nú boðið stjórn Dagsbrúnar samstarf um einn lista fyrir verkamannasambandsþingið til að koma í veg fyrir óþarfa klofning í félaginu um þessi mál. Við höfum gjarnan verið sakaðir um klofningsstarf af íhaldssömum stuðningsmönnum stjórnarinnar, sem nú munu fá að sjá svart á hvítu hverjir vilji samstarf og hverjir ekki. Stjórn félagsins hefur fengið spilin í hendurnar. Nú er að sjá hvort þeir vilja sanngjarnt samstarf eða baráttu um tvo lista á næsta félagsfundi.

Um úrslit mála munum við svo birta í Stéttabaráttunni eftir næsta félagsfund, sem væntanlega verður fyrir miðjan þennan mánuð, því þingið á að vera í lok hans.

Ég kippi mér ekki upp við það...

Karl Steinar Guðnason formaður Verkalýðs- og Sjómannafélags Keflavíkur, lætur hafa eftir sér í Þjóðviljanum í síðustu viku, að hann hafi ekki kippt sér upp við það þegar frystihúsin lokuðu, enda væri það árviss atburður. Karl Steinar er Alþýðuflokkskrati, og finnst því eðlilegt og ekkert við því að gera þegar atvinnurekendur sparka verkafólki á vissum árstíma. Hér eru það ekki hagsmunir verkafólksins og atvinnuöryggi þess sem ræður tali og aðgerðum formannsins. Þetta er ágætt dæmi um hversu djúpt sumir "verkalýðsforingjar" eru sokknir í stéttasamvinnu við auðvaldið. Þeir eru hættir að kippa sér upp við það þótt hundruðum verkafólks sé sagt upp í refskák frystihúsaeigenda.

Kjarabót fyrir bændur?

Stéttabaráttan vill vekja athygli á því að síðasti aðalfundur Stéttasambands bænda samþykkti áskorun til ríkisstjórnarinnar um að hækka tolla á erlendri fóðurblöndu. Kemur oss það spánskt fyrir sjónir að Stéttasambandið hvetji til hækkunar á rekstrarvörum landbúnaðarins. En á aðalfundinum sitja víst ekki neinir smákallar. Þá munar sjálfsagt ekki um að borga hærri tolla af fóðurblöndu. En flesta bændur munar þó um það. Í þágu hverra var þessi ályktun gerð? Svari þeir sem það vita.

# *Viðtal Stéttabaráttunnar seinni hluti*

# „Íslendingar eru þjóð hugrekkis, iðni og þekkingar"

Hr. Ló Tsú-wen svaraði síðan spurningum blaðsins um list sköpun í Kína og menningarmál.

STB: Á hvern hátt hefur afstaðan til listsköpunnar breyst í Kína ?

Tsú-wen: Ég get svarað þessari spurningu út frá samsetningu þeirra listamanna sem eru í för með okkur. Einn listamannana er frá þjóðernisminnihluta í Kína, annar er pípaleikari og sá þriðji píanóleikari. Pípa er einskonar Kínverskur gítar, er 2000 ára gamalt hljóðfæri og píanóið er nýtt í Kína og algerlega erlent hljóðfæri. Í Kína nútímans tökum við jafnt gömul þjóðleg sem erlend hljóðfæri í notkun í þágu sósíalismans. Þetta er gott dæmi um stefnu Maós í menningarmálum það er; látið það gamla þjóna nútímanum, en erlenda hluti þjóna Kína og listina þjóna verkamönnum, bændum og hermönnum. Grundvöllur okkar í dag er enn menningarbylting öreiganna á sviði menningar og lista. Við verðum að fylgja kenningum Maós af mikilli kostgæfni. Listin verður að þjóna verkamönnum, bændum og hermönnum og við verðum að láta 100 blóm blómstra. Einnig verðum við að færa fram reglur Maós um að láta það gamla þjóna nútímanum Sósíalísk list og menning getur aðeins blómstrað með þetta að leiðarljósi. Á síðustu árum settu „fjórmenningarnir" fram endurskoðunnarsinnaða línu sem er á móti kenningum Maós. Og þetta olli miklum skemdum á list og menningu okkar. Þessa endurskoðunnarsinnuðu línu settu „fjórmenningarnir" einnig fram til að sækjast eftir völdum eins og vinir okkar vita. Þeir slúðruðu um og bönnuðu jafnvel gömlu byltingarmennina, kölluðu þá lýðræðissinna og töldu lýðræðissinna vera kapitalista. Þessum áætlunum sínum til framdráttar notuðu þeir allar hugsanlegar aðferðir og brögð. Það verður að segja eins og er að þeir reyndu að nota öll sín völd í þágu samsærisins.

Þeir reyndu allt til að brjóta á bak aftur og slúðra um leiðsögn flokksins. Einnig reyndu þeir að breyta og falsa sögu flokksins og hersins og þeim var ekkert heilagt í árásum sínum. 1975 var 40 ára afmæli göngunnar löngu. Á þessum degi átti samkvæmt línu okkar í menningarmálum að gefa öllum tækifæri til að hafa list sína frammi. En „fjórmenningarnir" bönnuðu Hsco-hua að flytja verk sitt um gönguna. Einn „fjórmenninganna" gekk jafnvel svo langt að segja eitthvað á þá leið: „hversu mikla birgði getur svo löng ganga borið" sem varpar rýrð á mikilvægi hennar. En Mao sagði að gönguna löngu yrði að halda hátíðlega vegna þess að hún hefði verið sáðvél og áróðursvél og sýnt hversu djúpt sá flokkur risti sem skók heiminn.

Og „fjórmenningarnir" réðust einnig gegn kenningunni um 100 blómin. Þeir vildu aðeins láta þau blóm blómstra sem þeir gátu stjórnað. Þeir börðust einnig af heift gegn öllum þeim sem vildu ekki beygja sig undir stjórn þeirra. Þeir bönnuðu „Brautryðjendurnir" góða kvikmynd um Dadsing olíustöðvarnar. Vegna viðhorfa þeirra varð list þeirra einhæf og bragðlaus. 1973 74 og 75 gaf Maó út tilmæli um að sýna yrði réttlæti og jafnrétti. Á síðustu ævidögum sínum tók hann sjálfur virkan þátt í að færa fram vígorð sín. Auk þess tók hann virkan þátt í listsköpun. Hann studdi við bakið á þó nokkrum hópi listamanna sem „fjórmenningarnir" bönnuðu. Eftir fall „fjórmenninganna" hefur nýtt ástand verið skapað undir leiðsögn Hua formanns. Fjölda hreyfingin til gagnrýni á „fjórmenninganna" er að dýpka. Skemdarverk „fjórmenninganna" og þau sár sem þau ollu eru að gróa. Í garði lista og menningar eru 100 blóm tekin að blómstra. Einn fyrirboði þessa er heimsókn okkar nú. Húa formaður hefur hvatt listamenn til að skipuleggja sig og setja markmiðið hátt. Hann hvatti listamenn Kína að taka við erfðaskrá Maós í menningum og listum. Þeir eru hvattir til að þjóna verkamönnum, bændum og hermönnum með list sinni. Þeir eru hvattir til að þjóna alþjóðahyggju öreiganna. Jafnframt eru þeir hvattir til að setja fram góð verk sem sameina bæði að vera pólitístk rétt og nálgast fullkomnun í tilliti til listræns forms. Einnig eru listamenn hvattir til að stuðla að nýju risi í listum. Við trúum að undir leiðsögn Húa formanns muni listin ná nýju og hærra stigi. Maó mun lýsa listamönnum okkar veginn um alla framtíð.

STB: Hvernig teljið þið að hægt sé að auka og styrkja tengsl og vináttu þjóða okkar?

Ló Tsú-wen: Ég get svarað þessu varðandi heimsókn okkar með tilvitnun í ritgerð Maós „Hin tíu tengsl": „Það verður að viðurkennast að sérhver þjóð hefur sínar sterku hliðar. ... Stefna okkar er að læra af sterkum hliðum allra þjóða og allra landa, læra allt það sem er í kjarna sínum gott á



pólitísku, efnahagslegu, vísindalegu og tæknilegu sviði og í bókmenntum og listum. En við verðum að læra með skilgreinandi og gagnrýnum augum, ekki blint og við meigum ekki taka allt hrátt upp og yfirfæra vélrænt. Að sjálfsögðu megum við ekki taka upp vanþróun þeirra og veiku hliðar (Maó. V bindi blaðsíðu 303)

Íslenska þjóðin hefur í langri sögu sinni og langvinnri baráttu og vinnu skapað mörg góð listaverk. Mörg verka ykkar eru til eftirbreytni og mikið má læra af þeim. Samkvæmt þessari stefnu viljum við breyta sem kemur fram m.a. í því að listamennirnir leika einnig nokkur íslensk og vestræn verk á hljómleikum sínum hér. Við þökkum fyrir að hafa fengið tækifæri til heimsækja land ykkar og hitta marga góða vini.

Stéttabaráttan þakkar frú Ting Sjö-sung og hr. Ló Tsú-Wen fyrir að hafa séð sér fært að svara spurningum okkar.

# Landsráðstefna SHA

Samtök Herstöðvaandstæðinga hafa nú ákveðið að landsráðstefna SHA verði daganna 15-16 október í Festi Grindavík. Nokkur undirbúningur er þegar hafinn og í tilefni ráðstefnunnar verður Dagfari gefin út í nokkuð stóru upplagi. Þeir málaflokkar sem sennilega verður lögð höfuðáhersla á eru umræða um starf og stefnu samtakanna. Á ráðstefnunni verður gerð starfsáætlun fyrir næsta starfs ár. Í lok ráðstefnunnar er síðan gert ráð fyrir að ný miðnefnd verði kosin og ályktanir samþykktar.

DAGSKRÁ :

Laugardagur 15 okt.

Kl. 14.00. Skýrsla miðnefndar og alm. umræður.
Kl. 16.00. Starf og stefna SHA.
Kl. 19.00. Máltíð.
Kl. 20.30. Skemmtun.

Sunnudagur 16. okt.

Kl. 10.00. Starfshópar.
Kl. 12.00. Máltíð.
Kl. 13.00. Almennar umræður
Kl. 16.00. Kaffi.
Kl. 17.00. Atkvæðagreiðsla og samþykkt ályktanna

Miðnefnd.



Myndin er af útifundinum á Lækjartorgi að lokinni Keflavíkurgöngu 1976.

## Af fjölmiðlum

Megrunarkúr á sama tíma og verðhækkanir.

Á þriðjudagskvöldum fylgjast sjónvarpsáhorfendur í miklum spenningi með megrunarþættinum enda er ekki vanþörf á þar sem verðhækkanir dynja nú á okkur. Kaupmáttur launa minnkar dag frá degi svo að þakka ber sjónvarpinu fyrir að kenna þjóðinni að borða minna svo verkalaunin dugi fyrir brýnustu lífsnauðsynjum. Það vekur að vísu athygli að fjölmennasta stétt þjóðfélagsins, verkamennirnir sem erfiða mikið og þurfa þar af leiðandi að fá góðan kviðfylli, eiga engan fulltrúa í megrunarþætti sjónvarpsins. Það er kannski skiljanlegt, ef athuguð eru orð matvælafræðings þáttanna sem segir að þeir sem eru á kúrnum megi ekki hreyfa sig of mikið því það auki matarlystina. Ekki er ég viss um að allir atvinnurekendur séu jafn ánægðir með svona yfirlýsingar enda er þeim líklega ekki beint til erfiðisvinnumanna sem glotta við tönn yfir stærð þeirra matarskammta sem ráðlagðir eru.

„Þrír þjóðarleiðtogar".

Sunnudaginn 25. september sýndi sjónvarpið lokaþáttinn í breskri þáttaröð sem nefnist "Þrír þjóðarleiðtogar". Þessi þáttur fjallaði um Stalín og átti að sýna ævi hans og starf. Eins og vænta mátti var í meðferð efnisins hin breska söguskoðun í algleymingi en hún er, eins og við íslendingar fengum að kynnast í landhelgisstríðinu, full af mótsögnum og rangfærslum að ekki sé minnst á beinar lygar. Þetta á ekki aðeins við þáttinn um Stalín heldur allt eins hina tvo þættina þar sem blóðhundurinn Churchill er fegraður og lofaður á allan hátt. Ógnaraðgerðir hans gegn verkamönnum Bretlands urðu "smáuppþot" sem voru "fullharkalega" kæfð í blóði. Eða Roosevelt sem samkvæmt höfundum þáttanna "þótti sérstakt ljúfmenni". Það veit hvert mannsbarn samt sem áður að það var í tíð þessa "ljúfmennis" sem kjarnorkuárásin á Hirosíma og Nagasakí var undirbúin þó honum entist ekki aldur til að hrinda henni í framkvæmd. Í þættinum um Stalín kveður við annan tón. Nú var keppst við að bera aur á minninguna um félaga Stalín. En þrátt fyrir allar lygarnar um að milljónir hafi setið í fangabúðum og þúsund manns skotnir í Moskvu á einum degi skein sannleikurinn í gegn. Því þrátt fyrir allar Krúsjeff lygarnar sínar gátu bresku sjónvarpsmennirnir ekki með nokkru móti gengið framhjá hinni gífurlega stórstígu efnahagsuppbyggingu á öllum sviðum í Sovét árin milli stríða. Skipulagt undanhald í upphafi seinni heimsstyrjaldarinnar samfara skæruhernaði var nefnt "hrakfarir rauða hersins því Stalín hafði veikt hann". Samt gátu þeir ekki slegið striki yfir að það var einmitt frábærri herstjórnarlist Stalíns að þakka að sigur vannst yfir hersveitum fasismans. Engin önnur þjóð lagði svo mikið í sölurnar sem Sovétmenn. Enda kemur í ljós að hiti og þungi stríðsins hvíldi á þeim. Samtímis þráuðust bretar og

FRAMHALD SÍÐU 2.



Öreigar og kúgaðar þjóðir heims sameinist!

# Stéttabaráttan



Útg: Kommúnistaflokkur Íslands m-l.
34. tbl. 4.10. 1977

STÉTTABARÁTTAN
-kemur út vikulega-
Sími: 27810.
Gíró: 27810-6.

Ábyrgðarm: Sigurður Ingi Andrésson.



FRAMHALD AF FORSÍÐU

## Er verkalýðsforystan meðsek í ósómanum

26. greinar um husnæði vinnustaða þverbrotin. Lýsing er þar mjög slæm þannig að slys hafa hlotist af. Samt sem áður gerir Öryggiseftirlitið ekkert í málinu né heldur varaformaður Dagsbrúnar sem á sæti í öryggisráði ríkisins. Þetta er að sjálfsögðu vítaverð afstaða hjá launuðum embættismönnum verkalýðshreyfingarinnar og ríkisins.

Í vélsmiðjunni Þrym eins og svo víða annars staðar í minni smiðjum eru engin búningsherbergi fyrir verkamennina eins og lög gera ráð fyrir. Þetta lætur Öryggiseftirlitið viðgangast, og hefur svo verið árum saman. Það er eins og það þýði ekki fyrir verkamennina að kvarta vegna aðbúnaðarins það er illa séð af auralitlum atvinnurekendum og sofandi Öryggiseftirlitinu.

Í álverinu í Straumsvík er starfandi sérstakt öryggiskerfi á vegum atvinnurekendanna. Þungar ákærur hafa komið fram í blaði verkamannanna Straumsvíkur verkamanninum vegna tregðu fyrirtækisins þegar þörf er á að gera við biluð vinnutæki sem verkamennirnir telja að geti valdið slysum. Auk þess er slysasamkeppni milli deilda fyrirtækisins sem gerir það að verkum að verkamenn hafa verið að dragnast fárveikir til vinnu, því annað er illa séð af vinnufélögunum eða alla vega sumum þeirra. Ekki hefur Öryggiseftirlit ríkisins séð sér ástæðu til að rannsaka gagnrýni verkamannanna á öryggiskerfi verksmiðjunnar, sem sett eru upp meira og minna til að breiða yfir orsakir slysanna. Í flestum tilfellum er það léleg aðstaða og biluð vinnutæki sem eru skaðvaldurinn en ekki heimska og óvarkárni verkamannanna eins og reynt er að láta líta út fyrir. Ótal sinnum hafa verkamennirnir orðið að standa í stappi við yfirmennina, leggja niður vinnu til að fá biluð vinnutæki lagfærð. Öryggiseftirliti verksmiðjunnar er vel kunnugt um þetta, en ekki taka þeir málsstað verkamannanna því ekki er hægt að þjóna tveim húsbændum þar sem Mammon og verkamennirnir eru.

Í verksmiðjum eins og Álafossi í Mosfellsveit hafa orðið alvarleg vinnuslys vegna opa sem eru á gólfum verksmiðjunnar fyrir ofan vélarnar. Engin handrið eru í kringum þessi op þannig að mikil hætta er á að verkamenn falli niður um þau eins og reyndar hefur gerst nokkrum sinnum. Öryggiseftirlitið á að skoða verksmiðjuna og krefjast fyrirbyggjandi aðgerða auk þess sem viðkomandi verkalýðsfelag, Iðja félag verksmiðjufólks, á ekki að vera sofandi í þessu máli.

Þessi fáu dæmi sem hér hafa verið tekin sýna fram á hvernig þau lög sem Öryggiseftirlitið á að framfylgja eru þverbrotin á nokkrum vinnustöðum smáum og stórum. Þrátt fyrir að verkalýðshreyfingin eigi tvo fulltrúa í Öryggisráði Íslands sem skipað er til sex ára í senn af viðkomandi ráðherra, heyrist engin gagnrýnisrödd vegna frammistöðu Öryggiseftirlitsins. Það hlýtur að vekja þær spurningar hvort verkalýðsforystan sé meðsek í ósómanum, standi með vanhirði atvinnurekenda sem veldur og á eftir að valda fleiri vinnuslysum og dauðsföllum verkafólks vegna lélegs aðbúnaðar og öryggis á vinnustöðum. Stéttabaráttan hvetur verkamenn til þess að skýra okkur frá því ef um brot á þessum lögum er að ræða á þeirra vinnustað. Þessi tvenn lög ætti að vera hægt að fá í Heilbrigðis- og Tryggingarráðuneytinu, og ætti það að vera skylda a.m.k. trúnaðarmanna að kynna sér þau vel og krefjast þess að þeim verði framfylgt ef þau eru brotin á þeirra vinnustað.

FRAMHALD AF FORSÍÐU

## Kambódía Sjálfstætt fólk

alla leið til Thailands til þess að líta augum þá fáu Kambódíumenn, sem flúðu yfir í sæluríkið Thailand eftir frelsunina. Nú ætla ég ekki að atyrða Elínu, hún er greinilega einn af vorum minnstu bræðrum í andlegu tilliti. En ég undrast hvernig hægt er að fylgja vakandi manneskju um land, sem herjað er einhverri ógeðslegustu fasistastjórn síðari tíma, án þess að hún verði þess vör. Og þegar sömu múgböðlar og pyntingameistarar opna henni dyrnar að flóttamannabúðum og sýna henni vandlátir á svip, fólk sem lifað hefur ógæfu borgarastyrjaldarinnar borgarastyrjaldar í heimalandi sínu, og dæla hana fulla af hroðalegustu lýsingum á glæpum nágranna sinna, án þess að þokunni létti í hugarheimi hennar, þá get ég vart orða bundist.

Mér er spurn, ná engin lög yfir þjóðlygara? Á að láta það refsingarlaust að hvaða smámenni sem vera skal, geti nítt og smánað fátæka þjóð, sem hefur haft kjark til þess, sem íslensk borgarastétt hafði vissulega ekki dug til, nefnilega að heimta frelsi sitt undan oki erlendrar þjóðar með vopnum? Mannvinurinn Elín Pálmadóttir, sem strýkur hryllilegustu böðlum samtímans meðhárs, sem aðhyllist fjöldamorð chileanskra fasista og grimmdarverk kóreanskra morðhunda og grætur örlög þjóðar sem frelsaði sig undan kúgun Bandaríkjamanna, er svo einstakt spesíment, að hún á rétt á "friðun".

En sem betur fer megna ekki slúðurhalar borgarapressunnar neins í þessu tilliti. Þeir geta ekki sigrað þjóð með slúðri, þegar hún hefur hrakið af sér vopnað ofbeldi bandarísku heimsvaldastefnunnar. Kambódía er frjáls og hefur tekið örlög sín í eigin hendur. Kambódíumenn eru sjálfstætt fólk og meðal þess finnst væntanlega enginn, sem er reiðubúinn að sleikja skósóla kúgara síns, eins og ýmsir vestrænir fréttamenn hafa gert að sérgrein sinni. Frelsi kambódískrar alþýðu og ötul uppbygging þess stríðshrjáða lands sem hún byggir er ein sér næg umbun fyrir raunverulega frelsisvini. Og ánægjan yfir því, að máttlaust sífur fordómafullra kerlinga er marklaust og ómerkt, verður enn meiri með tilliti til þess.



Í Straumsvík er aðbúnaður verkamannanna slæmur og slysahætta mikil.

## Sósíalismi Alþýðubandalagsins

Landsþing Alþýðubandalagsins verður að öllum líkindum haldið 23 okt. nk. Ragnar Arnalds formaður flokksins verður þá að láta af formennsku samkvæmt lögum og verður þá að velja nýjan. Það er heppilegt að Ragnar skuli hafa lögin fyrir sér þegar hann hættir formennsku, því margir óbreyttir Alþýðubandalagsmenn eru óhressir með frammistöðu hans við hlið Jóns Sólness sem Kröflunefndarmanns. Allt kapp verður því lagt á að fá óspillta ásjónu í formannssætið, einhvern úr verkalýðsstétt af Stór-Reykjarvíkursvæðinu. Sá sem helst er nefndur er Geir Gunnarsson skatta- og efnahagssérfræðingur flokksins, traustur endurbótasinnaður sósíaldemókrat. Engin sérstök málefnabarátta á sér stað innan Alþýðubandalagsins um stefnuna og er það enn ein sönnunin fyrir því hve flokkurinn er gjörsneiddur öllu sem heitir lýðræðisleg umræða.

Verkamenn verða í hverfandi minnihluta á flokksþinginu ef marka má fyrri þing og þær umræður sem átt hafa sér stað í Þjóðviljanum um flokksstarfið. Því er manni spurn, hvernig getur Alþýðubandalagið kallað sig sósíalískan verkalýðsflokk, þegar verkamenn ráða engu um stefnuna né heldur skipa forystusæti flokksins? Stéttasamsetningu Alþýðubandalagsins hefur hrakað í beinu hlutfalli við stéttasamvinnustefnu flokksins við auðvaldið og þjóðfélagskerfi þess. Alþýðubandalagið er því engin lausn fyrir það verkafólk sem vill kollvarpa auðvaldsskipulaginu og byggja upp þjóðfélag sameignarframleiðslunnar, sósíalismann. Þeir vilja aðeins setjast í stjórnarstóla kerfisins í stað þess að brjóta það niður og byggja upp annað, og telja þeir það vera hið eina sem verkalýðurinn geti barist fyrir.

Arðránið á verkalýðnum sem er undirrót þjóðfélagsvandamálanna skal halda áfram og geta af sér ríka og fátæka. Þess vegna köllum við Alþýðubandalagið endurskoðunarsinna, flokk sem vill áfram auðvaldsskipulagið þar sem þeir hafa aðstöðu til að gera smávægilegar endurbætur til að gera óréttlætið svolítið þolanlegra fyrir vinnandi fólk. Bjarni Þórðarson, gamall félagi í Kommúnistaflokk Íslands hér á kreppuárunum og fyrrverandi bæjarstjóri á Neskaupstað, sagði í sjónvarpsþætti í vetur að þetta væri inntakið í stefnu flokksins í dag, gagnstætt við það sem áður var þegar hann var ungur og baráttufús kommúnisti. Þess vegna skal engan undra þegar ungir verkamenn standa í því að byggja upp Kommúnistaflokk Íslands m-l, og er ekki hægt að tala um að við vinnum klofningsstarf í því sambandi, því okkar stefna er á allt öðrum grundvelli en stefna Alþýðubandalagsins sem vill frelsi og frið fyrir auðvaldið. Því verður ekki breytt innan Alþýðubandalagsins því þar þrífst ekkert lýðræði eða gagnrýni á stefnuna. Við munum halda ótrauð áfram í því starfi að byggja upp Stéttabaráttuna og skapa Kommúnistaflokk Íslands sem raunverulega brjóstfylkingu verkalýðsins og annarrar alþýðu í baráttunni gegn auðvaldinu og fyrir afnámi þess.

## Stéttabaráttan

Eins og velunarar blaðsins hafa væntanlega orðið varir við hefur ákriftasöfnunin ekki gengið samkvæmt áætlun. Einnig hefur lausasöluaukningin ekki náð því marki sem stefnt var að. Þegar svo er komið sér ritnefnd blaðsins sig knúna til að framlengja herferðinni fram til áramóta í þeirri von að fólk taki sig nú reglulega á og leiðrétti þau mistök sem hér hafa átt sér stað í starfinu. Með samstilltu átaki mun árangurinn ekki láta á sér standa

Hamarinn mun sýna aukningu lausasölunnar, frá því sem nú er. Sigðin sýnir nýja áskrifendur blaðsins.

Félagar og aðrir velunnarar blaðsins skulu póstsenda nýjar áskriftir til :

Rauðu Stjörnunnar, Lindagötu 15. Rvk. Pósthólf 1357.
Einnig má hringja í síma 27810 milli klukkan 15 og 18 .

